# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, JANÚAR 1904. NR. 11.

## Sálmr

**út af Mark. 1, 29—35—eftir séra Valdemar Briem.**

(Lag: Heyr börn þín, guð faðir, sem biðja þig nú.)

1. Þá skínandi röðullinn rann upp úr mar,
úr rekkju steig Jesús, er lífssólin var,
hið blessaða dagsverk sitt byrjaði hann
sem brosandi sól, er um himininn rann:
að lýsa sem mest
og að lífga sem flest.

2. Þá hækkaði sólin með skínanda skraut,
þá skunda tók hann sína líknsemdar-braut,
og hitann og þungann hann hraustlega bar,
af himneskum kærleik hann gagntekinn var:
að verma sem bezt
og að blessa sem mest.

3. Þá hallaði degi með sígandi sól,
hin sama var náð hans, er aldrei sig fól;
ei lækkaði' hin blessaða líknarsól hans,
ei linaðist þróttr hins starfsama manns:
að líkna sem mest
og að lækna sem flest.

4. Og loksins á kvöldin, er sólin var setzt,
hann settist ei niðr, en vann þá sem mest.

Í sæng gengu margir, þó hvíldist ei hann,
og hann eigi' af kærleik til þreytunnar fann:
að hjálpa sem bezt
og að bœta sem flest.

5. Það dróst fram á nóttu, það svalt varð og svart,
en sama var hjartað, það hlýtt var og bjart.
Þá hætti' hann að starfa, svo heitt þá hann bað
sinn himneska föður, því líf hans var það
að iðja sem bezt
og að biðja sem mest.

6. Hvort sólin upp rís eða sigin er lágt,
um sólbjartan daginn og heldimma nátt,
í gleðinnar sólskini', í sorganna nótt
oss sign þú, vor drottinn, og gef þú oss þrótt
að læra sem bezt
þér að líkjast sem mest.

## Ekki alveg út í loftið.

Hr. Einar Hjörleifsson kvartar undan því í blaði sínu, „Norðrlandi" (II, 52), að eg hafi talið hann valdan að því, að séra Jón Helgason fór að berjast fyrir biblíu-'kritíkinni' á Íslandi. Hann segir, að eg viti ekkert um það og geti ekkert vitað. Og hann vítir mig fyrir „að vera að koma með svona staðhœfingar út í loftið",—staðhœfingar, sem mér sé ekki unnt að standa við, ef fram á það sé farið.

Nei, þessi staðhœfing mín er ekki alveg út í loftið. Og eg hefi ekki fleygt henni fram órökstuddri.

Eg hefi all-skýrt tekið það fram í Ágúst-blaði „Sameiningarinnar" frá 1901, hvað eg hefi fyrir mér í þeirri staðhœfing, sem hér er um að rœða. En með því að það, sem þar er sagt, virðist hafa farið algjörlega fram hjá hinum háttvirta vini mínum, hr. E. H., og þar sem margir lesendr vorir nú líklega ekki hafa það „Sam."-blað við höndina, skal hér með sem fæstum orðum rifjað upp það, sem eg í þeirri grein benti á þessu efni viðvíkjanda:

Af orðum nokkrum tilfœrðum úr ritstjórnargrein í ,,Verði ljós!" frá því í Okt. 1898 má ráða, að séra Jón Helgason hafi á þeirri tíð verið í algjörum vafa um það, er hann síðar hefir talið áreiðanlega sannað að því er snertir uppruna Mósesbóka. En 21. Des. sama ár kom út ritstjórnargrein í ,,Ísafold" um hin kirkjulegu tímarit vor Íslendinga, og bar sú grein það skýlaust með sér, að hún var í letr fœrð af hr. E. H., sem þá var með í ritstjórn þess blaðs. Þar er það meðal annars og með sönnu tekið fram, að öll þau tímarit (þar á meðal ,,V.l.!") hafi fram að þeim tíma algjörlega ,,gengið fram hjá þeim skoðana-byltingum ritningunni viðvíkjandi, sem á síðustu áratugum hafa orðið í hugum hinna yngri guðfrœðinga og margra gamalla líka". ,,Með því"— stendr þar enn fremr — ,,hafa þau – – – svift sjálf sig fjölda lesenda – – – og látið undir höfuð leggjast að veita lesanda sínum mikilvæga aðstoð bæði í efasemdum hans sjálfs og viðreigninni við þá, sem á móti mæla." — Mjög skömmu eftir að þetta birtist í ,,Ísafold" kemr ,,Verði ljós!"—í Febrúar 1899 —með grein eftir séra Jón Helgason um ,,Þversagnir og missögli" í biblíunni. Þar með er baráttan til varnar hinum nýju skoðunum í þeirri átt hafin. Í Marz og Apríl sama ár ritar hann um innblástr ritningarinnar frá sama sjónarmiði. Í Júní kemr greinin: ,,Eigum vér að þegja?" Og svo koll af kolli.—Af því, er þannig lá fyrir svart á hvítu, leiddi eg hiklaust þá ályktan, að hr. E. H. hefði hleypt séra J. H. á stað út í baráttuna. Með hinni áminnztu grein í ,,Ísafold" hefði hann gjört það. Og þar fór eg einmitt beinlínis eftir meginreglum hinnar 'hærri kritíkar'. Mér fannst þessi röksemdafœrsla mín óyggjandi og ómótmælanleg, og mér finnst svo vera enn.—Þetta er alls ekki nein tilgáta út í loftið eins og meginið af ályktunum þeirra manna, sem nú í seinni tíð hafa verið að beita hinni niðrrífandi 'kritík' sinni gegn ritum biblíunnar. Sé ályktan mín röng, þá er fyrir hlutaðeigendr að sanna það. Sannanalaus mótmæli tel eg markleysu tóma, og sama munu allir óhlutdrœgir menn gjöra. Vilji hr. E. H. halda mótmælunum áfram, þá verðr hann að gjöra grein fyrir því, öðruvísi og betr og sennilegar en eg hefi gjört,

hvernig á því stendr, að séra Jón Helgason tók að gjörast formælandi hinna nýju kenninga um biblíuna svo að kalla undir eins á eftir útkomu hinnar umgetnu greinar í „Ísafold", — þá, en ekki fyrr.

J. Bj.

# Hvað er biblíu-'kritík'?

Eftir C. Asschenfeldt Hansen.

## III.

### HVAÐ ER BIBLÍU-'KRITÍK'?

Þegar vér í stuttu máli viljum segja frá því, hvert biblíu-'kritíkin' nú allra síðast er komin, þá hljótum vér að kannast við, að Hoff prestr hefir rétt að mæla, er hann í viðreign sinni við prófessor Madsen kemst svo að orði: „Hér er að ræða um algjöra sundrliman gamla testamentisins." Menn hafa komizt svo langt að n e i t a s ö g u l e g u g i l d i gjörvallrar frumsögu Ísraels. Sagan um sköpunina, syndafallið, syndaflóðið, sundran tungumálanna (Babelsturninn), saga Abrahams, saga Ísaks, saga Jakobs — allt þetta er gjört að þjóðsögnum, ógreinilegum, þokukenndum æfintýrum, líkrar tegundar og það, sem sagt er um Ragnar loðbrók í fornaldarsögum Norðrlanda. Yfir þessi sögulegu undirstöðuatriði varpar biblíu-'kritíkin' þoku. Hvað mikið af því eigi við einhvern sannleika að styðjast á ekki að vera unnt að skera úr. H. Gunkel, er talinn er í fremstu röð meðal þeirra manna, sem nú eru að eiga við biblíu-'kritík', hefir fyrir skemmstu gefið út skýring á fyrstu Mósesbók, og þar farast honum orð um allt þetta hér um bil á þessa leið: Sögusagnirnar hafa orðið fyrir margfaldri ummyndan, og vér getum nú að eins að litlu leyti gjört oss ljóst, hvernig öll sú ummyndan hefir atvikazt. Þess er naumast neinn kostr, að fyrir það verði grafizt, hvernig þær sagnir hafi upphaflega hljóðað, og vér getum ekki í einstökum atriðum ákveðið, hvaða persónur það kunna að hafa verið, sem sagnirnar hljóða um. Að því er snertir Abraham, Ísak og Jakob segir hr. Gunkel, að reyndar sé í fyrstu Mósesbók um þá talað sem menn; en hvort þeir sé sögulegar persónur, það fullyrðir hann að sé algjörlega óvíst, enda standi nokkurn

veginn á sama, hvort svo hafi verið eða ekki, þegar á málið sé litið frá sjónarmiði trúarbragðasögunnar. Um „trúarbrögð Abrahams" segir hann blátt áfram, að þann átrúnað hafi sögusagna-höfundarnir haft og eignað hann Abraham. Prófessor Jakobsen, kennari í gamla testamentis frœðum við háskólann, telr þessa skýring Gunkels á fyrstu Mósesbók frábærlega lærdómsríka, — segir, að hún hafi inni að halda „mikið, sem búast megi við að býsna afdráttarlaust verði viðrkennt", og endar ritdóm sinn með því, að þetta sé „skemmtilegasta rit Genesis til skýringar, sem nú liggr fyrir".

Hinum sögulega grundvelli er þannig kippt burtu undan hinum miklu megin-atburðum hinnar helgu sögu, sem allt er undir komið og snýst um, og með því móti verða þau söguatriði algjörlega óáreiðanleg. Reyndar segir prófessor Jakobsen í ritdómi sínum um bók Gunkels, að engan veginn vilji menn neita veruleik sköpunarinnar, heldr að eins því, að sköpunin hafi farið fram eins og saga biblíunnar segir frá. En því er gleymt, að guðs ríki er saga, heilög saga, frá upphafi til enda. Í raun og veru er allt gjört vafasamt, þegar áreiðanlegleik sögunnar er kollvarpað. Það er í mesta máta hryggilegt og villanda fyrir stúdentana, að prófessor Jakobsen skuli geta talað eins og hann hefir gjört um aðra eins bók, er svo mjög miðar að því að rífa niðr. Þótt hann segi, að margt og mikið í henni sé óvíst, þá má þó af ummælum hans ráða, að þar sé margt og mikið, sem hann telr gilt og gott. Þetta hefir hryggt og hneykslað fjölda fólks.

Nú höldum vér lengra áfram með að athuga biblíu-'kritíkina'. Hvað segir hún nú meira um Mósesbœkrnar? Hún segir, að Móses sé ekki höfundr neinna þeirra; hún leysir þær í sundr í mörg frumrit, hver öðrum ólík og sín á milli full af mótsögnum, og er staðhœft, að þau rit hafi líka margvíslega verið sniðin til af ýmsum útgefendum. Svo langt hafa menn farið í þessum kenningum, að tala hinna svo nefndu höfunda hefir orðið allt að 30, svo að úr öllu þessu er orðinn hinn mesti hrœrigrautr. Í aðal-atriðunum halda biblíuskýrendr þessir því fram, að nokkuð af Mósesbókunum, „sáttmálabœkrnar", sem svo eru kallaðar, sé frá 8. og 9. öld.

Fimmta Mósesbók á að hafa orðið til á stjórnartíð Jósía konungs (árið 623), og ,,prestaritið" svo nefnda eftir útlegðarvistina í Babýlon (árið 444). En Móses leiddi Ísraelslýð burt úr Egyptalandi um 1500. Eftir því ætti þá það, sem elzt er í Mósesbókunum, ekki að hafa verið í letr fœrt fyrr en sex til sjö hundruðum ára eftir Móses, og hitt frá níu til ellefu hundruðum ára eftir hans dag.

Við hvað 'kritíkin' styðr sig í þessum staðhœfingum sínum, út í það förum vér ekki hér; það getum vér gjört í ritum þeim, er síðar munu frá oss koma. En á þennan hátt hverfr Móses algjörlega sem persóna sú, er af guði var útvalin til þess að innsigla lögmálið (eða staðfesta sannleiksgildi þess). Biblíu-'kritíkin' talar því ekki um ,,lögmálið og spámennina", heldr um spámennina og lögmálið, með því að hún gengr út frá því, þvert á móti vitnisburði ritningarinnar, að spámennirnir (eða rit þeirra) sé á undan lögmálinu, og að Mósesbœkrnar hafi ekki fyrr en smásaman verið í letr fœrðar af prestum og öðrum, sem höfðu hag af því að koma slíkum lögum á, og svo til þess að fá þau viðrkennd hafi þeir smeygt þeim inn undir nafni Mósesar, og ef til vill hafi þeir þá stuðzt við gamlar, vafasamar sagnir um persónu hans og starfsemi.

Á þennan hátt á allt að hafa gjörzt mjög eðlilega, þroskazt áfram smátt og smátt; en löggjöfin við Sínaí, opinberan guðs þar, það mikla, dýrðlega undr, hverfr í þoku. Og hvað verðr svo af trúverðugleik og áreiðanlegleik Mósesbókanna? Hvað er þá satt og ósvikið í þeim bókum? Hvað myndum vér segja, ef einhver á vorum dögum ritaði bók og hefði þar fyrir undirstöðu þjóðsagnir frá tíð Gorms gamla? Myndi nokkur telja slíkt verk sögulega áreiðanlegt?

Mér finnst vér höfum nú bráðum fengið nóg af þessu. Látum oss svo að eins bœta því við, að Buhl, danski prófessorinn í hebresku, hefir nýlega lokið við rit eitt til skýringar Sálmunum og lýsir þar yfir því, að ekki einn einasti sálma þeirra, sem í biblíu vorri eru nefndir ,,Davíðs sálmar", sé eftir Davíð. Þetta leiðir af því, sem á undan var gengið.

því í Sálmunum er stöðugt vísað til Mósesbókanna. Þar sem því nú er haldið fram, að þær sé til orðnar seinna en á dögum Davíðs, þá neyðast menn til að halda hinum neitandi ályktunum sínum áfram og kveða upp þann dóm, að Davíð sé ekki heldr höfundr neinna þeirra mörgu sálma. — Þá er það enn fremr kennt, að spádómsbók Daníels sé sett saman af einhverjum Gyðingi á Makkabeatíðinni, nokkrum hundruðum ára eftir að Daníel var uppi.

Af því, sem nú hefir verið tekið fram, getum vér fullvel séð, hvernig biblíu-'kritík' sú, er nú tíðkast, lítr út. Myndi ekki í sannleika mega segja: Það er úlfr, sem leitazt hefir við að læðast úr eyðimörk vantrúarinnar inn fyrir hin helgu vébönd?

Vel veit eg það, að hvorki prófessor Madsen né Koch biskup né neinir þeirra líkar vilja með nokkru móti fyrir sitt leyti fara svona langt. En hvernig geta menn með allt þetta fyrir augum varpað svo friðanda bjarma yfir biblíu-'kritíkina', og sagt, að þetta saki ekki mikið, því að aðal-efninu, kjarnanum, getum vér haldið þrátt fyrir það, þótt þeir menn, sem hingað til hafa taldir verið guðleg innsigli bóka þessara, trygging þess, að þær sé frá guði, eigi engan þátt í því, að þær urðu til, svo að hinum sögulega áreiðanlegleik er algjörlega haggað.

Það tíðkast mjög í máli þessu að halda fram nafninu Delitzsch. Þann þýzka prófessor var vissulega rétt að telja meðal trúaðra guðfræðinga. Það var sann-guðhræddr maðr; en hann líktist talsvert Melanchthon, vini Lúters. Þegar á fyrra hluta æfi hans var um hann sagt, að þá að eins væri hann fastr fyrir, er hann eins og Melanchthon styddi sig við annan mann honum sterkari. Árið 1887 hvarf Delitzsch frá hinni gömlu skoðan, að Móses sé höfundr bókanna fimm, sem við hann eru kenndar, og ruddi með því gamla testamentis 'kritíkinni' braut inn á svið hinnar trúuðu guðfræði. En það er vissulega viðrhlutamikið að vilja leiða ályktanir af því. Hinn trúaði prófessor Thiersch aðhylltist kenningar Irvings, en af því leiðir ekki, að þær kenningar sé sannar. Í fornöld gjörðist Tertullían Montaningr, en ekki varð sérkenning Mon-

taninga-flokksins að sannleika fyrir það. Ekki fremr réttlætir það biblíu-'kritíkina', að henni í einu sinna mörgu kenningaratriða tekst að hrífa trúaðan mann með sér. Og það er sjón sögu ríkari, að biblíu-'kritík' nútíðarinnar á, að því er gamla testamentið snertir, aðallega r ó t s í n a a ð r e k j a t i l v a n t r ú a r i n n a r. Prófessor Green, hinn amerikanski guðfrœðingr, sem í meir en fimmtíu ár hefir barizt gegn biblíu-'kritíkinni', segir, að allir viðrkenndir f o r v í g i s m e n n þeirrar hreyfingar hafi undantekningarlaust neitað veruleik undra og spádóma og allri beinni guðdómlegri opinberan í upphaflegum og evangeliskum skilningi. Hann segir, að tilraunir þær, sem gjörðar hafa verið til að samríma tilgátur biblíu-'kritíkarinnar' hinni kristnu trú, hafi að eins orðið til þess að fœra mönnum heim sanninn um það, hve veilar þær eru í sinni dýpstu rót.

## IV.

### HIN GJÖRRÆÐISLEGA MEÐFERÐ BIBLÍU-'KRITÍKARINNAR' Á HEILAGRI RITNING.

,,Þegar að verki þessu er unnið samkvæmt vísindalegum meginreglum án nokkurrar hlutdrægni, þá er þar ekkert í, sem kristnir menn þurfa að óttast.'' Þannig mæla þeir, sem vilja taka frá oss allan kvíða með tilliti til biblíu-'kritíkarinnar'. En þetta dugir ekki í reyndinni. Því heilög ritning er e k k i e i n s og a ð r a r b œ k r? Að vera sögufróðr, hafa málfrœðislega skarpskyggni til að bera, o.s.frv., er e k k i n ó g til þess að geta dœmt um heilaga ritning. Menn verða að hafa s a m a a n d a sem biblían er full af; annars komast menn naumast hjá því að misbjóða ritningunni. Það má ekki fara með heilaga ritning eins og hvert veraldlegt fornrit. ,,Frjáls'' rannsókn, eða það, er svo er nefnt, sem slítr sig frá a n d a biblíunnar, verðr að heimildarlausu g j ö r r æ ð i, getr ekki þekkt hin andlegu takmörk. Og auk þess er e n n v e r r farið með ritninguna en veraldleg fornaldarrit. Ef eitthvert letrmál á steinspjaldi eftir heiðingja finnst, þá er hiklaust gengið að því vísu, að það sé áreiðanlegt, og sé það ósamhljóða því, sem í ritningunni stendr, þá er það

undir eins talið gild sönnun fyrir því, að ritningin hafi rangt fyrir sér. Sé það ritningunni samhljóða, þá er af náð við það kannazt, að ritningin geti í því atriði haft rétt fyrir sér. Þannig var það, þegar hin svo nefndu Tell-ell-amarna-bréf fundust, þau er staðfesta söguþáttinn í 14. kap. fyrstu Mósesbókar, að þá var því játað, að biblían fœri þar með sannleik, og Buhl segir, að fyrir þessa sök bendi sá kapítuli í Genesis sterklega til þess, að Abraham sé í raun og veru söguleg persóna. En fyrir ritningunni út af fyrir sig beygja þessir menn sig ekki, heldr ganga að henni með mesta yfirlæti, svo sem væri hún bók sú, er því að eins sé nokkuð að marka, að hún fái vitnisburði með sér utan að.

Þetta væri nú sök sér, ef allir þeir, sem eru að eiga við biblíu-'kritík', væri sammála. En því fer mjög fjarri. Sín á milli deila þeir um það, hve mikið geti talizt áreiðanlegt. Og þar sem þeir svo krefjast þess af kristnum söfnuði, að hann aðhyllist tilgátur þessar, sem að svo mörgu leyti eru hver á móti annarri, eins og niðrstöðu hinna vísindalegu rannsókna, eins og ómótmælanlegar sannanir, og halda því fram, að þeir allir, sem ekki aðhyllast staðhœfingar þeirra, sé að „berjast á móti sannleikanum", — þá er það skelfilegt gjörræði. Með þessu móti myndi söfnuðrinn lenda í höndunum á svo nefndum vísindum, sem ekki þekkja nein takmörk og ekki geta numið staðar á niðrstigningarleið sinni. Talsmenn biblíu-'kritíkarinnar' í Danmörk kannast sjálfir við það, að í Danmörk sé að eins örfáir menn, sem í raun og veru hafi nokkra dýpri sjálfstœða þekking á rannsóknarmálum þessum (í mesta lagi einir 5 eða 6). Engu að síðr er þess krafizt, að þessum fáu mönnum, sem aftr í öllu verulegu halda sér við kenningar hinna þýzku prófessora, skuli söfnuðrinn fylgja og trúa í staðhœfingum þeirra. En er vér veitum því eftirtekt, að traustið til gamla testamentisins og lotningin fyrir því er að bila, að menn eru að missa sjónar á hinni guðdómlegu hlið biblíunnar, þá er ekkert annað fyrir söfnuðinn að gjöra en að hrinda þvílíkri 'kritík' frá sér með ákveðnustu mótmælum gegn því hræðilega gjörræðisverki, án þess að láta það neitt á sig fá, þótt framvegis

eins og að undanförnu verði hrópað: „Þér skiljið ekkert og vitið ekkert. Mótmæli yðar eru vonzka, en ekki vísindi.“ Vér leitum víst ekki ráða hjá vísindunum um það, hvort ritningin sé guðlegs eðlis. Fyrir því höfum vér betri trygging í vitnisburði drottins og postulanna. Og í næsta þætti skulum vér nú athuga það, sem drottinn vottar um gamla testamentið.

## V.

### HVAÐ SEGIR DROTTINN UM GAMLA TESTAMENTIÐ?

Já, hvað segir drottinn? Lýsir hann Abraham fyrir oss eins og skröksögu-persónu? Segir hann oss, að Móses hafi engan þátt átt í því að færa Mósesbækrnar í letr? Segir hann oss, að enginn af Sálmunum sé eftir Davíð? Varpar hann spádómsbókum Jónasar og Daníels burt sem svikaritverkum? Í Jóh. 5, 45—47 segir drottinn við Gyðinga: „Ætlið ekki, að eg muni ákæra yðr fyrir föðurnum. Sá er, sem ákærir yðr, Móses, sem þér treystið. Ef þér tryðuð Móses, þá tryðuð þér og mér, því hann hefir skrifað um mig. En ef þér trúið ekki hans bókum, hver von er þá til þess, að þér trúið mínum orðum?“ Er þetta samhljóða biblíu-'kritíkinni'? Og með tilliti til Abrahams segir drottinn (Jóh. 8, 56): „Abraham faðir yðar gladdist af því, að hann myndi sjá minn dag, og hann sá hann og gladdist.“ Enn fremr segir hann (Jóh. 8, 37 og 39): „Eg veit, að þér eruð Abrahams niðjar; — — ef þér væruð Abrahams börn, þá gjörðuð þér Abrahams verk.“ Bendir þetta til þess, að drottinn áliti Abraham skröksögu-persónu? Og að því er snertir Davíðs sálma, þá talar drottinn í Matt. 22, 41—45 um 110. sálminn á þann hátt, að allt hans tal verðr markleysa og þvættingr, svo framarlega sem sá sálmr er ekki eftir Davíð. Öll röksemdaleiðsla drottins á þeim stað í viðreign hans við Farísea er undir því komin, að það sé Davíð, sem í þeim sálmi kallar Messías drottin sinn. Að því er Jónas snertir, þá talar drottinn í Matt. 12, 39—40 um hina undrsamlegu dvöl spámannsins í kviði

hvalfiskjarins*), sem tákn dvalar hans sjálfs í gröfinni og upprisu hans þar á eftir. Að því er Daníel snertir, þá minnir drottinn í Matt. 24, 15 á spádóminn í Dan. 9, 26—27 um það, er viðrstyggð eyðileggingarinnar birtist standandi á hinum helga stað.

Svo höfum vér þá hér heyrt drottin vitna á móti biblíu-'kritíkinni' (og í fótspor hans feta postularnir, eins og vér sjáum á mörgum mörgum stöðum í nýja testamentinu). Fyrir söfnuðinn er þá að velja um staðhœfingar svo nefndra vísinda og vitnisburðar hins trúa frelsara vors (og postula hans). Hvort af því tvennu skal valið verðr ekki vafasamt.

En hvað taka nú trúaðir guðfrœðingar til bragðs, þeir er vilja gjöra oss rólega með biblíu-'kritíkina' andspænis þessum orðum drottins. Hér birtist hinn sári blettr. Vantrúaðir guðfrœðingar hika sér víst ekki við að segja: ,,Jesú skjátlaðist; hann vissi ekki betr.'' En það orð hljóta þó trúaðir menn að eiga ervitt með að láta út úr sér.

Þá hefir verið gripið til þeirra óyndisúrræða að verja sig með hinni svo nefndu ,,*kenósis*''-kenning. Í 2. kap. bréfsins til Filippímanna er svo að orði kveðið um frelsara vorn, þegar hann kom hingað á jörðina: ,,Hann lítillækkaði sig sjálfan'', eða nákvæmara: ,,tœmdi sjálfan sig'' (,,ekenósen'' í frumtextanum gríska). Þetta er þá útlagt svo, að d r o t t i n n h a f i e i n n i g l a g t f r á s é r a l v i z k u s í n a. Vér heyrum þess getið á ýmsum stöðum í nýja testamentinu, að drottinn hafi spurt um það eða það, t. a. m. við gröf Lazarusar: ,,Hvar hafið þér lagt hann?'' Hann segir og, þegar rœða er um hinn síðasta dag, að faðirinn hafi sett tíðir og tíma í sjálfs síns vald, og jafnvel sonrinn viti ekki, hve nær þann dag beri að hendi. Annarsstaðar sjáum vér aftr á móti, að d r o t t i n n s é r þ a ð ú t í æ s a r, sem mannlegt auga annars ekki getr séð. Í því tilliti getum vér bent á orð drottins til Natanaels (Jóh. 1, 49): ,,Áðr en Filippus kallaði á þig sá eg þig, þar sem þú varst undir fíkjutrénu.'' Þá er enn fremr það, sem stendr seinast í 17. kap.

---

*) 'Kritíkin' telr það undr að sjálfsögðu til æfintýra, og hefi, höfundrinn víst ætlað að geta þess í þriðja þætti ritgjörðarinnar, en gleymt því. ÞÝÐ.

Matteusar guðspjalls, þar sem Pétr að boði drottins dregr fisk úr sjó, opnar munn hans og tekr þaðan pening til þess að greiða með musterisskattinn. Og margir aðrir staðir. Það virðist benda til þess, að drottinn hafi haft alvizkuna og notað sér hana, þegar hann þurfti og vildi. En hvernig sem því kann nú að vera varið með þetta, sem hér skal ekki rœða og menn ekki heldr nokkurn tíma fá skilið til fulls, þá er óralangt á milli þess og hins, að segja, að drottinn hafi svo algjörlega tœmt sig, að hann hafi gjört sig sekan í röngum staðhœfingum. Því ef biblíu-'kritíkin' hefir rétt fyrir sér, þá hafa þær hugmyndir Gyðinga á holdsvistardögum drottins verið fjarri öllum sanni, að Móses og Davíð hafi verið heilög verkfœri guðs til þess að fœra hinar helgu ritningar í letr o.s.frv., og drottinn vor Jesús hefir þá sömuleiðis verið flœktr í þessum röngu ímyndunum og jafnvel staðfest þær fyrir aðra. Á þennan hátt fáum vér þá frelsara, sem skjátlast.

Nei! svarar söfnuðr guðs; að veita viðtöku öðru eins samþykkjum vér aldrei. Myndi hann, sem sagði: „Áðr en Abraham var, er eg" (Jóh. 8, 58), hann, sem í guðs orði er sagt um, að hann hafi verið hella sú, er fylgdi Ísraelslýð í gegn um eyðimörkina (1. Kor. 10, 4), — myndi hann ekki þekkja sögu Abrahams og Ísraelsmanna? Hér misbjóða vísindin drottni sjálfum; og til ónýtis er það, að menn hafa viljað grípa til þess neyðarúrræðis að segja, að drottinn hafi þó reyndar sagt, að sólin „renni upp" (Matt. 5, 45). Já, svo lélegt ráð hefir verið reynt að nota til að sýna, að drottinn hafi líka verið ófróðr um annað, þar sem hann samkvæmt þessu ekki hafi vitað um þann náttúrufrœðislega sannleik, að jörðin hreyfist, en sólin stendr kyrr. Maðr veit ekki, hvort maðr á að hlæja eða gráta út af annarri eins röksemdafœrslu. Enn í dag komumst vér vitanlega eins að orði, án þess að nokkur fyrir það gruni oss um að hafa rangar skoðanir um afstöðu jarðarinnar og sólarinnar hvorrar við aðra. Nei, í þessari staðhœfing, að háskólakennarar nú á dögum geti sannað það upp á drottin Jesúm, að honum hafi skjátlazt, getr biblíu-'kritíkin' aldrei komið lifanda söfnuði til

að verða á sínu máli. Allt, sem frelsari vor hefir sagt, er áreiðanlegt og satt; hans orð um gamla testamentið, hans vitnisburðr um Abraham, Móses, Davíð, Jónas og Daníel getr ekki raskazt.

## Frá missíónarpresti kirkjufélagsins.

Þrjá mánuði — frá 23. Sept. til 20. Des. — þjónaði eg Alberta-söfnuði í Alberta vestr. Prédikaði eg 14 sinnum á opinberum guðsþjónustu-samkomum, en eftir á kenndi eg, oftast nær, á sunnudagsskóla, ásamt húsfrú Hólmfríði Goodman. Hún hefir haldið sunnudagsskóla yfir sumarmánuðina; leggr hún mikla alúð við það starf, enda er flestum fœrari til þess.— Flesta rúmhelga daga frœddi eg unglinga í kristindómi; 17 unglingar sóttu þessa frœðslu,—aðrir voru starfsettir við alþýðuskólana; — en áðr en eg fór fermdi eg 10 þeirra, og þá um leið var 60 manns til sakramentis. — Í þessari ferð skírði eg 15 börn, og jarðsöng tvennt.

Það er víst um það, að ýmsir í Alberta-söfnuði starfa að velferð hans af alhug og atorku, enda dafnar hann eftir fremstu vonum, einkum þegar litið er á, hve fámenn Íslendinga-byggð þessi er og söfnuðrinn ungr. — En sakir félagslyndis og einingar standa Alberta-Íslendingar sjálfsagt meðal fremstu Vestr-Ísl. í því, sem horfir til menningar, og í því að sameina íslenzkt þjóðerni amerískri framtaksemi; söfnuðr þeirra á því sýnilega góða framtíð fyrir hendi, eins og hver annar félagskapr þeirra á meðal.

Winnipeg, 23. Desember 1903. **Pétr Hjálmsson.**

## Skýring.

Sumir hafa fundið að því í ágripi mínu af sögu Mikleyjarsafnaðar, því er birtist í Maí-blaði „Sam." síðastliðið vor, að ekki komu þar nöfn þeirra manna, sem helzt hafa staðið fyrir málum safnaðarins. Það er ekki nema réttlát aðfinning; en vandi er þó að leysa það verk þannig af hendi, að engum sé sýnt ranglæti. Þess má þó geta, að nærri því allan þann tíma, sem söfnuðrinn hefir staðið, hefir Helgi Tómasson verið féhirðir hans, og heldr hann þeim starfa enn. Um langan tíma var Stefán Jónsson forseti. Þessir tveir menn áttu einna

mestan þátt í því að söfnuðrinn lifði í gegn um tíð stríðsins og örðugleikanna, sem fráhvarf séra Magnúsar Skaftasens hafði í för með sér.—Það mun hafa verið 22. Jan. 1892, að söfnuðrinn gamli klofnaði; en 5. Apríl sama ár voru þessir kosnir fulltrúar: Stefán Jónsson (forseti), Helgi Tómasson (féhirðir), Vilhjálmr Ásbjörnsson (skrifari), Halldór Halldórsson og Helgi Ásbjörnsson.— Vilhjálmr Ásbjörnsson hefir um langan tíma verið skrifari safnaðarins, og þeir Halldór Halldórsson og Stefán Friðbjörnsson voru all-lengi í safnaðarnefnd. Þegar sátt og samlyndi komst á milli safnaðarins og utansafnaðarmanna, út af kirkjueigninni, 15. Ágúst sumarið 1901, voru það Ágúst Magnússon, núverandi forseti, af hálfu safnaðarins og Jón Jónsson af hálfu utansafnaðarmanna, sem gengu einna bezt fram í því, að koma á því samkomulagi. Helgi Ásbjörnsson hefir einna helzt barizt fyrir sunnudagsskólamálum safnaðarins í seinni tíð.

R. M.

---

ÁRSLOKA-HÁTIÐ sunnudagsskóla Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg var haldin að kvöldi sunnudagsins milli jóla og nýárs á líkan hátt og áðr hefir tíðkazt. Kirkjan var í jólaskrautbúningi sínum og troðfull af fólki. Prógramm samkomunnar var þetta: 1. Vanalegr *introitus* (sálmasöngr, biblíulestr og bœn). 2. Resítazíón („Hvert er það ljós" og „Hvert er það gull"—tvö vers úr *jólasöng til barnanna* eftir séra V. Br.): smástúlka. 3. Resítazíón („Hver er sú rós" og „Hvert er það barn" —önnur tvö vers úr sama sálmi): smástúlka. 4.—8. Resítazíón („Sýnir Esekíels" úr Biblíuljóðum séra V. Br.): drengir 5, sinn þátt hver drengr. 9. Söngr, tvíraddaðr („For unto us a Child is born"): allr skólinn. 10. Resítazíón („Ó, gangið þér með mér í kirkju í kvöld"—jólasöngr í „Kenn." IV, 2): smádrengr. 11. Resítazíón („Munr er manna viti"—úr Barnasálmum séra V. Br.): smádrengr. 12 Resítazíón („Nú sumarlaufin svífa"—haustsöngr þýzkr í þýðing Jóns Runólfssonar): smástúlka. 13. Sóló-söngr (sömu ljóð): stúlka. 14. Resítazíón („Hinir þrír vitringar úr Austrlöndum"—sálmr eftir Grundtvig í þýðing Steingríms Thorsteinssonar): stúlka. 15. Resítazíón („Hvítasunnumorgun" —niðrlagsþáttr úr Biblíuljóðum): drengr. 16. Ávarp frá forstöðumanni sd.skólans, presti safnaðarins. 17. Söngr, þríraddaðr („For God so loveth the world" [McGranahan): allr skólinn. 18. Resítazíón („Bœn Mozarts" [„Kenn." III, 5): stúlka. 19. Söngr, sextett („Heyri' eg fossins hrikasöng"—sœnsk ljóð í þýðing Hannesar S. Blöndal): stúlkur. 20. Resítazíón („Heilögu jól"—sálmr eftir Gr.Gr.) í „Kenn." II,2):

drengr. 21. Söngr („The Christian's Good Night" [Huish, Sankey]: eldri börn. — Að niðrlagi sungið af öllum: „Drottinn blessi mig og mína".

---

*Delitzsch*, hinn lúterski þýzki guðfrœðingr, sem nefndr er í blaði þessu hér að framan (í 3. þætti ritgjörðarinnar um biblíu-'kritíkina' eftir C. Asschenfeldt Hansen), er Delitzsch hinn eldri (Franz Delitzsch, dáinn árið 1890), en ekki sonr hans (Frederic) Delitzsch hinn yngri, sem enn er á lífi og mjög fjarri fornum kirkjulegum rétttrúnaði. Þrátt fyrir það að gamli Delitzsch hallaðist að sumu leyti á efri árum æfinnar að hinum nýju skoðunum gamla testamentinu viðvíkjandi, farast honum svo orð í formála bókar þeirrar eftir hann um Messíasar-spádómana, sem kom út sama árið sem hann lézt:

„Sú tíð, sem kvöld æfidags míns ber upp á, hefir í för með sér byltingar og umbrot á svæði hinna helgu ritninga, einkum gamla testamentisins. Þau umbrot valda því, að óhug slær á mig, er eg tek eftir því, hvílíkt gaman leiðtogar byltingarinnar hafa af því að kollvarpa því, sem er, hve takmarkalaus afneitanin er í þeirri átt og hvílíkt andleysi vanhelganinni er samfara."

Enn fremr er þetta tilfœrt eftir sama manni:

„Því verðr ekki neitað, að bylting sú á svæði gamla testamentisins, sem nú stendr yfir, er rétt eins og sköpuð til þess að trufla samvizkur manna og flœkja veika trú í allskonar freistingum."

---

Eitt af því marga furðulega, sem menn fá að sjá á sýningunni í St. Louis í Bandaríkjunum nú í ár, er hin helga borg Jerúsalem. Hún verðr sýnd nákvæmlega eins og hún er og lítr út á vorri tíð. Hin eftirgjörða Síonsborg tekr yfir býsna víðáttumikið svæði á sýningunni, ellefu ekrur að stœrð. Og einnig fólkslífið í Jerúsalem á Gyðingalandi, eins og það er nú, verðr þar sýnt. Því að þúsund manna þaðan að austan verðr þar búsett þá sjö mánuði af árinu, sem sýningin heldr áfram,— Múhameðstrúarmenn, Gyðingar og kristnir menn; og kemr hver um sig af flokkum þessum í hinni eftirgjörðu borg fram eins og hann á að sér heima fyrir.—Þetta furðuverk, sem að sjálfsögðu kostar ógrynni fjár, verðr víst ákaflega sterkt afl til þess að draga fólk úr öllum áttum að sýningunni, ef til vill fremr en allt annað, sem menn eiga að fá að sjá þar.

---

Séra Jón J. Clemens hefir um áramótin tekið við nýju prestakalli meðal ensk-lúthersks fólks, í La Crosse, Wisconsin.

Að undanförnu, í tæp tvö ár, hefir hann átt heima í bœ þeim, er Ellsworth heitir, í sama ríki, og þjónað ensk-lúterskum söfnuði þar og öðrum í River Falls skammt burt þaðan. Eigi all-litlar framfarir virðast hafa orðið hjá þeim söfnuðum á hinum stutta tíma, sem hann hefir fyrir þá starfað. Blaðið, sem hann síðastliðið ár hefir gefið út til stuðnings verki sínu meðal fólks þeirra safnaða,—*Fold and Flock*—, býst hann við að gefa út framvegis í La Crosse.

---

Embættismenn safnaðanna í kirkjufélaginu veiti eftirtekt áskoran skrifara þess, séra Björns B. Jónssonar, sem kemr í þessu blaði ,,Sam.'', og láti honum ekki bregðast, að hann fái nú skýrslurnar.

---

**ÁSKORAN.**

Söfnuðum kirkjufélagsins hafa verið send eyðublöð undir skýrslur þær, er þeir eiga nú um áramótin að gefa kirkjufélaginu. Eg bið söfnuðina að senda mér skýrslurnar strax upp úr nýárinu.

Minneota, Minn., 10. Des. 1903.

**Björn B. Jónsson,**
skrifari kirkjufélagsins.

---

## Bókagjafir til bókasafns kirkjufélagsins.

Hr *Halldór Briem* á Akreyri: Ágrip af Íslands sögu eftir hann sjálfan, R.vík 1903, 10 eintök; Mrs. *Marí Kristjánsdóttir*: Bastholms Höfuðlærdómar, Viðey 1837; hr. *Jón G Westdal*, Minneota: Frumpartar ísl. tungu eftir Konráð Gíslason, Kh. 1846; hr. *Albert Kr. Petersen*, W.peg: Nýja testamentið á hebr-esku, útg. af brezka biblíufélaginu, Berlín 1901; Mrs. *Guðrún Jónsdóttir* (ekkja Eyjólfs heitins Halldórssonar), W peg: Messusöngs- og Sálmabók, 5. útg., Viðey 1832; sama bók, 8. útg., Viðey 1837; Prédikanir Jóns Vídalíns út af píslarsögu Jesú, Kh 1832; Nýjar hugvekjur, útg. af Svb. Hallgrímssyni, R.vík 1852; Lítil varningsbók eftir Jón Sigurðsson, Kh 1863 (óbd.; hr. *Björn Clemens*, W.peg: Olaus Olavius's Oeconomisk Reise igennem Island, Kh. 1780; Mrs. *Sezelja Bardal*, Markerville, Alta.: Sálma- og Bœnakver (Jón Jónsson og Hallgrímr Jónsson), 2. útg., Akreyri 1853, og samb. Bœna- og Sálmakver, útg. af Grími Laxdal, Akreyri 1853; Samling af Sneedorfs Smaa Skrifter, I, Soröe 1770; Harmonia Evangelica 2. útg., Hólum 1749. Vantar titilblað og aftan af registri; Smárit séra Jóns í Möðrufelli nr. 7—17; Smárit sama nr. 5—9, 12, 23, 32, 51, og þar við fest Ágrip Gyðinga- og Kristnisögunnar, fœrt í letr af Þ. E. Hjálmarsen, Kh. 1820 (óbd.).

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir ,,Sameiningarinnar.''



,,SAMEININGIN'' kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn'' fylgir með ,,Sam.'' í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans'' er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.'': 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—

Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, N. Steingrímr Þorláksson, Pétr Hjálmsson, Wilhelm H. Paulson, Halldór S. Bardal.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.